# HEIMSPEKINGASKÓLI

OG

# FUGLSKVÆÐI

ORKT AF

GUÐMUNDI BERGÞÓRSSYNI



REYKJAVÍK
ÚTGEFANDI: BENEDIKT ÁSGRÍMSSON
PRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1905

## Heimspekingaskóli.

---

Lag: „Dægrastytting skemta skal“.

1. Þegar fólki er þannig vart,
að þeinkja' ei upp á gaman,
temprast mætti að tala um margt
týnt úr bókum saman,
andleg uppvakning,
sem helgir bæði og heiðnir menn
hafa með útskýring,
til vareygðar oss vitnað senn,
á veraldar breiðum hring.

2. Ásett hef jeg að efna ljóð,
ef auðnan vill ei banna,
um spakmæli fögur og fróð
frægstu spekinganna,
nauðsynlegust nú,
einföldum til lærdóms ljett
lesist ræða sú,
í 18 greinum saman sett
svo það merkir þú.

3. Um tíð og guð vorn greina skal,
goðin og manninn líka,
sálu speki, svoddan hjal
og samvizkuna ríka,
rjettvísi auðmýkt enn,
um dyggðir tala dramb og stjórn
og dómara lögin tvenn,

ríkdóm, ágirnd, fasta fórn,
feigð og eilífð senn.

## Fyrsta grein um tímann.

4. Greinin fyrsta talar um tíð,
tímans hefst því ræða.
Lærifaðirinn börnin blíð,
Bernharðus, rjeð fræða
og hjelt af henni mest,
hún oss nú fyrir hendi stár,
hvar af tvennt því sjest,
hvað ypparleg hún er og klár,
en óvirðist þó mest.
5. Hennar sómi þekkist þá,
þegar menn gegnum skoða,
að vísu hvað hún verka má
og velferðina stoða
opt á ýmsan hátt;
aumt er að vita eyðist tíð
óþarflega þrátt,
sem herrann skamtað hefir þó lýð
með hagann vísdóms mátt.
6. Hans almætti hefir sett,
að hlutirnir allir skyldi
með tíð og æfi tímgast rjett,
því temprun halda vildi
loptið lönd og sjór,
verkmeistari virðist hún
í veraldar breiðum kór,
að jafna gróða' um jarðar tún
og jurta merki stór.
7. Óvitíus, einn svo tjer,
ekkert jörðin nái

út að rjetta af sjálfri sjer
sú nema tímann fái,
eins fer eðli manns;
vjer vöxum bæði að vizku og ment,
því veldur tíð til sanns;
öllum skepnum er hún hent,
eins til sjós og lands.

8. Tíð framkvæmir efnin öll,
eyðist flest á henni;
uppbyrjan og ending snjöll,
eins og glasið renni,
mörgum þakknæm þó
þó fyrir hana fæðumst vjer,
frið hún oss til bjó,
þá oss opt til þarfa sker
það guð undan dró.

9. Gæzkan hans, hún gefur oss frest,
gott er slíku að játa,
að leiðrjettast og laga bezt
lifnaðarins máta
þegar vjer syndgum þrátt;
um náðarstund hans biðlund blíð
býður fólki sátt,
ef hefndi hann glæpa á hverri tíð,
hólpið yrði fátt.

10. Guð minn náði góður það
gegndarleysið manna;
djarft sjer margur dauða bað
þá drýgði glæpi sanna,
en hefnd fer eftir hörð;
annaðhvort þá öflum vjer
eilífs lífs á jörð,

eða missum himnesk hjer
hjálpar meðulin gjörð,
11. Fordæmdir í kvalanna krá,
kaupa ef tímann mættu;
við sjálfan guð að sættast á
svoddan kost ef ættu,
bjóða mundu margt;
þó veraldir hefðu þúsund þeir
þaktar auðs með skart,
bjóða mundu miklu meir
mínútu fyrir part.
12. Ekki fá þeir þetta þó,
því skyldir þú, maður,
tímans meðan tæp er ró
tefja ekki glaður
við í heimi hjer,
ei forsóma yfirbót,
því eftir dauðinn fer;
verði þeirra víti ljót
til varnaðarins þjer.
13. Nú skal minnast aftur á
athugaleysið manna,
hversu tímans heimskir gá
og hirða' ei um hið sanna
hvað ágætur hann er;
þeir líta' á þegar liðin er stund
hvað lukkan ætlar sjer;
sem fugl sje sloppinn fagur úr mund
og fæst ei veiddur hjer.
14. Svo sem af boga fýfan flóg,
eða fram hjá vatnið renni;
eftirá mann þess iðrar þó
að ekki náði' hann henni,

tíð sem fyr var tæp.
Sophídes kvað sýnt óhapp
sumra valda klæk;
þeim sem hnoss úr hendi slapp
hljóta' að reka upp skræk.

15. Hvað mun valda, heimsk mannkind,
í hirðuleysissvíma
anar fram sem augna blind
og eyðir náðartíma?
Svara eg sjálfur því:
engu að kenna öðru er slíkt
utan bernsku ský;
heimsstjúpbörnin hylur ríkt,
er hjörtun slæðist í.

16. Óforsóttur er sá, nær
ekkert gjörir þvinga,
smábörnum til leiks er ljær
lausa gullpeninga,
þau akta þá sem eir,
gefa hvorki að gaum nje orð
þó glataðir hrjóti þeir
undir fætur bekki og borð,
beiðast slíks ei meir.

17. Þessu veldur þau eru ung
og þekkja ei gullið hreina;
eins er skýlan yfir oss þung
athugaleysis meina,
tæka að brúka tíð
guði til lofs, en gá ei kýfs,
nje gagnsemi fyrir lýð,
en vjer eyðum lengd vors lífs
líkt sem börnin fríð

18. Sumir leita oft við alls
æfi að stytta sína,
með heimsins kæti og svakki svalls,
segjandi kosti fína,
vols og vellysting
þeir rússa líkt og ríki mann
svo ráfi ei hugurinn kring,
það sem holdi þóknast vann
þykir gæfa slyng.
19. Mállaus dýrin mörg hver hjer
miklu betur sanna,
tækilegan tíma sjer;
en tölu letingjanna
minnist Salómon:
hyggið maursins haustverk á
nær hægt blæs veður tón,
vetrarbjörg sjer safnar sá
að sultar forðist tjón.
20. Skógarmúsin alt eins er
iðin um sumardaga,
en athugaleysið oss sem sker
yfir nam drottinn klaga,
og segir svo við lýð:
Storkurinn undir himni hreint
hann veit sína tíð,
en turtildúfa og tranan beint
nær tilkomuna jeg býð.
21. En mitt fólk þó vill ei víst
vita af guðs lögmáli,
hermir sá, sem hefur oss lýst
með hreinu kærleiks báli,
þekkja ef kynni þjóð,
hversu tíðin heilnæm er

hún þá þækti góð
misbrúkast ei mundi hjer
með svo vondan hnjóð.
22. Hómerus sjer óskar, að
arnarvængi bæri,
og flogið í þann fengi stað,
sem fyrir sín æska væri
og næði henni að ná.
Óvitíus alt eins bað
að æfina hreppti þá,
sem áður hafði hann útlifað
svo umbót mætti fá.
23. Gætum að oss guðs börn merk
svo gæfan ekki þrotni,
lifum vel með lofleg verk,
leitum eptir drottni
hvern dag hjeðan af spakt;
þetta skal svo talað um tíð
sem til hafa hyggnir sagt,
til annarar greinar eg svo skríð
um eðli guðs og makt.

### Önnur grein um guðdóminn.

24. Hægt er oss við hrannar lá
af hafinu part að líta,
en vídd og stærð að vita þá
vantar spekina ýta
eða djúp þess alt;
góður maður, af gjörðum eins,
Guð þinn þekkja skalt,
fær þó enginn fullt til neins
frjett hans eðli snjallt
25. Heldur er hann í sjálfum sjer

samur og jafn einn andi,
yfirgripinn af engum hjer,
alls órannsakandi
heimskt fyrir hold og blóð;
Aristóteles heiðni hátt
hefur því upp á ljóð
um hans talað makt og mátt
með myndug orðin fróð.

26. Óendanlegt alt hvað er
og ei hefur byrjun neina,
þegar slíkt í sjálfu sjer
sundur skulu menn greina,
komast þeir ei þar að,
engum skynsemd er svo með
að yfir grípi það,
nema sá einn, sem öllu rjeð
í upphafinu stað.

27. Vjer sjáum með von og trú
vorn guð hjer í anda,
sem í skuggsjá nokkri nú
nema hvað verk hans handa
gefa' oss glöggt á skyn,
líkt sem einhver skjöldung skýr
skrifi til sínum vin,
en opinberi orð hans dýr
elskuteiknin hin.

28. Jarðargrös og alt hvað er
almátt hans oss sýna;
vetrar kann ei heiptin hjer
með hörku neitt að pína
að aptur vaxi ei öll
blómstur lauf og blöðin smá
bæði um dali' og fjöll,

sömu liti' og farfa fá,
og fagran prýða völl.
29. Valenus læknir svo hefur sagt:
sá sem vill hugleiða
sköpun minstu skepnu spakt
og skoða með umsjón greiða
hvað ágætleg hún er;
skaparann mætti þekkja þann,
er þvílíkt gjörði hjer
að almáttugur einn sje hann,
sá eðla vísdóm ber.
30. Hefur því sjálfur Ciceró,
sem í Róm var forðum
af veraldar sköpun vænni þó
svo vigtuglega með orðum
sýnt oss samlíking,
að einn guð væri eflaust til,
sá aldar stjórnar hring
hljóðar svo með skýrleiks skil
skrifara glósan slyng.
31. Hvar þú kemur í húsið eitt,
og hentuglega sjer öllu
skipað niður og skraut til reitt,
sem skart í kónga höllu,
þeinkir þú með þjer,
að ei hafi slíkt sig unnið sjálft
einhver hagur er hjer;
gjört mun hafa þettað þjált
sá þrifnar höndur ber.
32. Hagar oss þannig heims um bý
hjer þegar inn vjer reikum,
sem gesta'herbergi annað í
alt með hentugleikum,

þú kennir kostuglegt;
temprar loptsins tímasól
tungl og stjörnur frekt,
veit sinn gang um veðrahjól,
og verkan fær svo þekkt.

33. Eins er jörð með aldintrjám
og eðla blómum vænum;
skógdýr leika heilmörg hám
hrírslum undir grænum,
en fjenaður foldu á,
um loptið hafa fuglar ferð,
en fiskar um vötn og sjá;
skaparans hönd er virta verð,
sem vandaði bygging þá.

34. Aristótelis einnig það
orð sín ljet við bæta:
sköpun hyggja skulum vjer að
í skaparanum oss kæta.
Segir og Seneka:
í oss víst einn andi býr,
er heilagur sá,
illt frá góðu eðlis skýr
alt sem greina má.

35. Neró illi, svo er sagt,
Siemon að spurði:
hvað er guð? því veit þú vakt,
en vitringurinn sem furði
umbað eins dags frest
til umþeinkingar svaranna senn
svo í tje það ljezt,
að kvöldi speking aptur enn
úrlausn skorti mest.

36. Um daga tveggja dvöl þá bað

að dikta þeinking snara,
en um síðir á hann kvað,
opt til krafður svara;
þess meir sem nú þó
fast rannsaka fór jeg slíkt
fyrir mig myrkur dróg,
vanskilningur vex svo ríkt
sem væði' í djúpum sjó.

37. Gyðingur nokkur viltur var
og vondsleg orð til lagði
gegn heilagri þrenning þar,
það ei mögulegt sagði:
þrír að yrðu einn.
Kátur stóð þar kappi hjá
kristinn trúarhreinn,
hann vjek í burt sem vakrast má
og var þá ekki seinn.

38. Hreina mundlaug hann tók þó
helti í vatni kláru,
ofaní ljet þar ís og snjó,
inn sem hendur báru
og fantinn frjetti að:
hvort væri nú ekki vatnið eitt
vott með þrí-skilnað.
Júðinn þessu játar greitt
að jafnast mætti það.

39. Mundlaug þessa maðurinn ljet
mitt í varma standa;
bráðnar mjöll sem hríðar hret
hafði kælt að vanda
og varð að vatni þá;
slyngur síðan slær því burt
slæma Júðann á,

vöknaði haus á vondum furt
svo vitkast mætti sá.

40. Epitetus, einn svo tjer
með andagiptu ríka:
guðs þá fyllum vilja vjer
vorn hann gjörir líka;
mikill er milding sá;
breiða jörð oss byggir hann
búum vér þar á;
þegar vér sofum, öllum ann,
andardrætti að ná.

41. Plútharkus svo skýrir skraf:
skal það betur sæma,
guði að vita ekkert af
en illa' um hann að dæma
að mörgum gjöri hann mein;
eins og skárra er seggjum sagt
sjónar missa stein,
en að líta augum skakt
til alls í hverri grein.

42. Hjálpaðu þjer sem föng til fær,
svo frelsar guð þig líka;
svoddan gjöra sjómenn nær
þá sjá þeir hafsnauð ríka,
þeir kalla Kristum á,
leita í bænum liðs til hans
að lending mættu ná,
en handa neyta og hraustleikans
hver sem orka má.

43. Eins sem ljósið enginn sjer,
utan af sjálfs þess ljóma;
guð vorn þekkt ei getum vjer
nje grunn hans leyndardóma,

nema hvað hefur hann
auglýst fyrir sitt orðið kent
og anda heilagann,
sem frelsarinn Jesús fjekk oss sent
að fræða viltan mann.
44. Haltú oss við hreina trú,
himnasmiðurinn sterki,
svo satan engan svíki nú
sonar þíns undan merki
að göfga goðin blind;
margir hafa menn um heim
magnað slíka synd;
greinin víkur þriðja' að þeim
í þessari kveðlings mynd.

## Þriðja grein um goðin.

45. Afguðanna dýrkun djarft
djöfullinn kendi mengi,
Babels eptir bygging snart
brúkuðu menn svo lengi
að þjóna myndum manns;
úr silfri trje og gulli greitt
gjörð voru til sanns.
Laban átti leirgoð eitt
því leyndi dóttir hans.
46. Mólok, Gyðinga afguð einn
út með rjettum höndum;
í karlmanns mynd var kopar hreinn,
kolum og eldibröndum
inn í hann var hleypt,
glóandi svo gjörðist frí
goðið, sem holt var steypt
feður börn sín færðu því

fórnar til með heipt.
47. Í þess faðmi börnin blíð
brunnu mörg til dauða;
svo ekki heyrðist emjan stríð
af ópi þeirra nauða,
leikarar ljeku í kring
með hörputón og hljóðfærin
hvell í samstilling;
kætt hefur þanka satan sinn
við svoddan hjeraðsþing.
48. Egypzk þjóðin elska rjeð
úlfa og krókódíla,
hafra, ketti og hunda með
og hofin er gjörðu skýla
virtu' og veittu prís,
ýms kvikindi augna skygn
og Indíaniskar mýs;
blótnautunum buðu þá tign,
sem Belíal sjálfur kýs.
49. Völdu til þess vildarmenn
að vakta dýrin stóru;
á þeim gæsum söddu senn,
er soðnar og steiktar vóru,
en þegar eitthvert dó,
greptrað var og gefið til fje,
með gráti miklum þó,
fólkið syrgði og fjell á knje,
en fjandinn að þeim hló,
50. Tólómeus Lagus lands
lofðungs þar með ráði,
uxa jarða einn til sanns,
upp á kosta náði —
elli drapst hann í;

50 pundum silfurs, senn,
sendi heims um bý;
gullkálfana gjörðu menn
goðinu eptir því.

51. Indía fólk í einum stað
afguð ljet sig villa;
djöfulinn sjálfan dýrkar það
dýrs með mynd svo illa,
hann hefur kórónu hátt;
furðu mikil ferföld er,
flennist tanna gátt;
augnalagið illa fer,
með opnar nasir þrátt.

52. Skelfilegur allur er
argur þessi dóli,
býður offra blóði sjer,
á björtum situr stóli
kapellu kóngsins í;
silfurklukku klerkur hans
klingir tóla frí,
logar þar jafnan ljós til sanns,
ljóma ber af því.

53. Klerkurinn hefur belti breitt
bjöllum hlaðið að líta,
á silfurskóm hann gengur greitt,
með glóandi hanzka hvíta;
ó! hvað satan er
fullur upp með dreyss og dramb
dýrð að eigna sjer;
frelsi oss drottinn flekklaust lamb
frá hans valdi hjer.

54. Í Frankaríki' er sagt að sje
sett í klaustri breiðu

meyjar snikkuð mynd af trje,
menn hafa þar til reiðu
fórnir henni að fá.
Appolló var afguð rjett
áður Grikkjum hjá,
en Rússland annar plágaði prett,
Pótollus hjet sá.

55. Dagon neðan dökkur var
digrum fiski líkur,
að ofan mannsmynd á sjer bar,
að því skriftin víkur,
dýrkaður í Asdoð.
Belzibub var Ekron í,
sem eitt sinn gjört var boð;
Micha þóttist maður frí,
myndaði sjer þó goð.

56. Jeróbóam kóngur knár
kálfa tvo af gulli
gjöra ljet í geðinu þrár
hinn guðlöstunarfulli;
en Akab Baal bað;
ræktu Jóvis Rómverjar
ríkir í sínum stað;
Babýloniskra Bel goð var,
braut hann Daníel það.

57. Sjáum hversu satan kann
sjálfs guðsmynd að spilla,
varast skulum vjer víking þann
hann venur svo fólkið illa
dreyssugt drottni frá.
Í fjórðu grein þó heyrist hjer
hvað heimspekingar tjá,

hversu maðurinn aumur er
og æ sín skammast má.

### Fjórða grein um manninn.

58. Sólon vitri mælti um mann,
meistari spektar lista,
að óklárindi ein sje hann
í upprunanum fyrsta
grant ef gætt er að,
bezta meðan ber hann líf
bóla vatns er það,
en eptir dauðans endað kíf
orma og maðka spað.
59. Aristóteles segir hann sje
sannlegt eptirdæmi
breiskleikans, sem berst í hlje
brögðum við þó kæmi
tíma og tíðar rán,
ellegar herfang æfinnar
með óvíst gæfu lán,
leikspil völtu lukkunnar
og læzt svo með þeim án.
60, Kjent líkneski er hann og
auðnu valds á seimi,
einnig mörkuð vigtug vog,
sem vegst á hjer í heimi:
öfund reiði og eymd.
Láttu ei drottinn lasta mín
laun mjer verða geymd,
döpur þar til dauðans pín
dimm er yfir mig streymd.
61. Orð þau talaði Archýtas,
að þeim vel mátt grunda,

þú mátt hafa það vjes og vas
sem viltu sjálfur stunda,
en aldrei þarftu þó
að vona, að það vinnist þjer
að veiða fisk úr sjó
þann sem beinlaus allur er,
eins fer stundleg ró.

62. Hjer í heimi enginn er
einn svo happagefinn,
að sítvinnist ei sorgin þver
saman við lukkuvefinn,
Ciceró svo fjekk tjáð.
Ódauðlegur einn guð, best
út hefur dreift og sáð
sinni rænu meðal mest
manna um jarðar láð.

63. Valdi hann þá að vera enn
verndara heimsins landa,
fyrirliða og forsvarsmenn
með frjálsum skilnings anda
heimsins hlaup að sjá,
að þeir kunni öllu því
eptir fylgja þá;
háleitt var þeim hugvit í,
heiðnir menn svo tjá.

## Fimta grein um sálina.

64. En með fljóta yfirferð,
svo ekki leiðist meingi,
að fimtu grein jeg víkja verð
og vita ef nokkuð fengi
sagt um mannsins sál,
skikkanlegt svo skiljist þjer,

sem skoða vilt þetta mál
ódauðlegur andi' hún er
og ætti að vera forsjál.

65. Aldrei sálir' eldast þar,
Epimenelus sagði;
mun hann hafa þeinkt til þar
þegar mann holdið lagði
akur drottins í;
skilst mjer verði ungleg önd
útvalin og ný,
hversu lengi heims um lönd,
sem hraknings varð ei frí.

66. Svo er háttað, segja má,
sál manns og líkama,
eins og þeim, sem ljet sjer ljá
leigu hús til sama
og einatt upp sig bar,
að optar illa endist sinn
ódýrri sem var;
veggir bæði veiklist inn
og viðir trosni þar.

67. Eins hefur sálin um sitt hold
ætíð nóg að klaga,
sem er hennar hús á fold
hjervistar um daga,
þar vantar víst umbót,
þó særist nokkuð samvizkan
synda fyrir rót,
ávalt kreinkja eitthvað kann
auga hönd og fót.

68. Kannskje dauðinn komi þó að
og kalla til hennar mætti,
að flytja sig úr fornum stað

fyr en von á ætti,
ellegar ef af mann veit,
sje hún þá til passa prýdd
í paradísar sveit
holdsins bygging hrekst ei nýdd
heljar ofan í reit.
69. Sál er herra sjerhvers manns,
þótt setji sig hold á móti,
óvinir það efla hans
svo yfirráðin hljóti;
en guð gefi oss að gá
vizkunnar, sem varnar bezt
vondri heimsku frá;
í stefinu það sjötta sjest
samtal máls um þá.

### Sjötta grein um spekina.

70. Þeim, sem settur yfir er
annað fólk í heimi,
vísdóm meiri vita ber,
vil eg því ekki gleymi
stoltir stjórnar menn;
því eins er munur ólærðs manns
og þess hyggna senn,
sem galinn hestur sje til sanns
saman og altaminn.
71. Ei þó skólinn öllum sje,
sem eiga kennslu að vanda,
gjörður til að græða fje
gott má af honum standa,
því sá, sem opt vill sæll
herra í æsku halda sig
hvefsinn og ódæll,

að vísu mun, þess væntir mig,
verða í elli þræll.

72. Úngur maður einn var sá,
um skal dæmi lýsa;
djarfur vildi drengur hjá
Diogenis vísa
koma til kennslu sjer;
meistarinn fyrst það vita vill
hvað vellundaður hann er,
hvert þoli slög eða orðin ill
ef að í milli ber.

73. Reyna skal jeg, við sjálfan sig
sagði hinn vizku ríki,
hvert hann er, sem uggir mig,
í öllu svo mjer líki
þolinmóður þó,
ellegar stífinn stór og þrár
stoltur geðs um þró;
einn svínsbóg fjekk, aldurs hár,
ungum manni og hló.

74. Bað hann skyldi bóginn þann
bera vel og lengi
eptir sjer og hirða um hann
hvert sem að þeir gengi,
en hinum ei hugnast það,
tók þó við og talaði fátt
tregt svo gekk af stað,
nokkra stund með bógin brátt
borgar vítt um hlað.

75. Kunningjarnir hlóu að hal
og hvefsni margur sendi,
þoldi hann ekki þeirra tal
og þeyti bóg af hendi,

en strauk í burtu strax;
Díogenis segginn sá
seinna annars dags,
aldraður við ungan þá
orðum kom til lags.

76. Vasaðu, son minn, velferðar
veg þann, sem þú getur,
því okkur skyldi ekki par
utan svínsbógs tetur;
kalt svo kvöddust þeir;
með asna höfuðið úr því gekk
hinn yngri stála freir,
heppnast bræður hafa þeim rekk,
því heimskur margur deyr.

77. Plató segir: haldist hjer,
heimskur er sá maður,
sem þykkist ekki þegar hann er
þunglega ávítaður
og metnast minnst við hól;
Metolkes kvað föt og fje
fást fyrir linna ból,
en vísdómurinn, segir hann sje
sá sem tíðin ól

78. Sócrates það telur tvennt,
til þess máttu hlýða
betra en nokkra bókament
að bindast ills og líða;
fríður fávís mann
skrautlegu líkur skipi er,
sem skríður sels um rann
og slinna í stafni slæman ber
sem slynkt ei stýra kann.

79. Karmídes, þeim gríska glöggt

gefið var svoddan næmi,
að allt, sem las hann eitt sinn snöggt,
þó ýmsar bækur kæmi,
þegar kunni hann það;
ofvís heita er ekkert vit
einn hefur til svarað,
opt nú gamlir iðka rit
en ungir feyja blað.

80. Sócrates með sinnið blint,
að sjá fyrir augum vorum,
tuttugu og fjórar stundir stint
stóð í sömu sporum
þungum þaunkum í;
hann um síðir hóf upp mál
hátt úr kafinu því,
að einn guð sje sem önnur sál
ódauðleg og ný

81. Stóran mann og heimskan hjer
jeg hræðist minna að reyna,
en hygginn þann, sem allsmár er,
Antiópas nam greina;
en nú er önnur nauð:
Eins er að sjá og samvizkan
sje í fólki dauð,
sem hirðir um enga heims í rann
hluti meir en auð.

## Sjöunda grein um samvizkuna.

82. Sezt hjer inn hin sjöunda grein
um samvizkuna að ræða.
Spakir segja hún sje hrein
haldin beztu gæða,
fríheit foldu á;

Paríander kvað peninga tjón
plágu minna að fá
heldur en manns um hyggju frón
hennar skaða að ná.
83. Díógenes talar og tjer
að tegund engin betur
fríi mann frá hræðslu hjer
en hrein samvizka getur,
er flekk ei með sjer fann
hvað dreyssugur sem annars er,
opt hún skelfir þann,
sem geymir hrekk í geði sjer,
því gest hvern óttast hann.
84. Vond samvizka' er verri en sótt,
víst má þessa kenna,
því innan loga í fyrstu fljótt
flest öll hús, sem brenna,
er hún ein af þeim
vítiskvölum verstu þó,
sem vara í öðrum heim,
stórsyndara styttir ró
sterkari vitnum tveim.
85. Lifðu, segir Senecá!
sem sæju allar þjóðir,
orð þín verk og þankar þá
þeir sjeu jafnan góðir;
því riktið rírna kann,
en samvizkan aldrei þó
ærlegan svíkur mann.
Að grein áttundu jeg glósu dróg
glöggt sem dæmið fann.

## Áttunda grein um rjettvísina.

86. Ræða skal um rjettlætið,
sem ritning hrósar víða,
hvar finnst maki að hreinum sið
heimsins byggðar lýða,
Nathanaels nú?
hverjum guðsson gaf þann prís:
góð er minning sú,
að frómur væri og full rjettvís
með flekklaust skilningsbú.
87. Eins finnst honum nú annar jafn;
jeg eptir grundað hefi,
sem menn leiti upp hvítan hrafn
með hreinu gyltu nefi
og klárum silfurklóm;
heiðnir betur ræktu ráð
með rjettvísinnar dóm,
en margir kristnir menn um láð,
því minkar öldin fróm.
88. Valerianus keisari knár
keröld rjett ljet smíða,
vogir og stikur, vizku hár,
hann vildi ei annað líða
hvern sem hitti þar;
mælir nokkurn markaðann,
sem máta ei slíkan bar,
brjóta ljet eður höggva hann,
en hönd af smiðnum skar
89. Hermes einn í Egyptó,
þá eitthvað fór að kaupa;
sem að ódýrt selt var þó
en sýndist meira hlaupa
borgaði betur sá;

mest sem vert hans meinti trú
svo mönnum drægi ei frá,
dauður er hann fyrir nokkru nú
en nær skal makann fá.

90. Kató engan kæran vin
kunni svo að eiga,
að bragnar á því bæri skyn
að breyta mundi meiga
hans rjettvísi hót;
svoddan blómstur sjást ei nú
sitja á hverri rót;
dauð sanngirni deyðir trú,
drottinn vinni oss bót.

91. Um Fabricíum mæltu menn,
sem meingið helgan kallar,
bágt svo væri að benda enn
byggð hans skilningshallar
fast rjettvísi frá;
líkt sem sól að hindra hjer
hlaupi sínu á;
haltu hvern mann eins sem er,
en að þjer sjálfum gá.

## Níunda grein um auðmýktina.

92. Níunda grein um auðmýkt er
og ágætt lítillæti;
gott er að vera af góðum hjer
getinn heims um stræti,
en þó er betra það,
að þú mætur sjálfur sjert,
sjá þinn viðskilnað
hald þig minna' en virðist vert,
vinur, í þínum stað.

93. Filippus kongur, maktar megn,
á Macedonía landi,
morgun hvern ljet fast með fregn
fyrir sjer úthrópandi
svein sinn svoddan tjá:
minnstu þess þú maður ert
milding jörðu á
hofmenn skyldu heimsins bert
hugsa um vísu þá.
94. Undirgefnir erum vjer,
auðmýkt vel því sæmir,
sínum herra sjerhver hjer,
sem oss kennir dæmi
hundraðshöfðingjans,
sem lítillátur bað um bót
á böli síns vinnumanns,
þar hefur dyggðin fest sinn fót
í ferils sporum hans.

**Tíunda grein um dyggðina.**

95. Í tíundu grein er talað um dyggð,
til hennar skyldi oss minna,
hverja nú um heimsins byggð,
-heitir bágt að finna
öldum þessum á;
falskan mann og hollan hjer
háttur skilur sá,
að æra og skömm ei sita sjer
saman í einni krá.
96. Díógenes segir: sá,
sem mest talar um dyggðir
en þær hefur engar þá,
er um hyggju byggðir

líkur löngum hjer,
hljóðfærum, sem hljóma brátt
hreyft þegar við þeim er,
öðrum skemta opt og þrátt,
en aldrei sjálfum sjer.
97. Antistenes segir til sanns:
sveit það teiknið þekki
foreyðslu síns fósturlands
fólk nær gjörir ekki
gildan greinarmun
vondra og góðra á milli mest
það merkir gæfuhrun;
en dreyssugir með drambið verst
draga sjer engan grun.

**Ellefta grein um drambsemina.**

98. Grein ellefta gjörir á skil
glöggt sem hjer má sanna,
hvað heimspekingar töluðu til
tærilætis manna,
sem stoltir státa hjer.
Aristóteles eitt sinn sá
ungan hal hjá sjer,
með dreyssugt viðmót, drambsamt gá,
en drussasvip þó ber.
99. Víst þess óska vildi' eg mjer,
væri og snild að bera,
svoddan maður, sem þú hjer
sjálfur þykist vera,
meistarinn mæla vann,
en óvinir mínir allir bert,
illir geðs um rann;
þvílíkt væri, þú sem ert,

vjer þekkjum landsvanann.
100. Í Aþenubǫrg á Grikkja grund
gjörð voru lög þau forðum,
nær með hofmóð nokkra stund
nokkur af baugaskorðum
götum gekk þar á,
sektum hlaut að svara tvist,
svo skyldi enn til gá;
þúsund Drakkmas reflarist
ráðinu mátti fá.
101. Díógenes dreng einn sá,
sem dreyssuglega var klæddur,
til hans spakur talaði þá
tignarskrauti gæddur:
skírt ef skartar þú
fyrir karlmönnum fríðum hjer
feil slær heimskan sú,
því aldrei biðlar aflast þjer
með ektaskapartrú,
102. En skartir þú, sem skynjar mig,
skírt fyrir ungum fljóðum,
að lítist betur þeim á þig
það er ekki af góðum
hugsunum heldur gert,
að svíkja nokkra silkieyr
sjálfum á þjer bert,
því þú þykist miklu meir
maður en þú ert.
103. Menekrates læknir ljóst
ljet það á sjer heyra,
dreyssugur með dramb og þjóst
af drengjum vildi ei meira
þeim lið fjekk lagt til sanns,

en undirgefnir segist sjer
og sannir þrælar hans;
heiðran veittist geira grjer,
sem guði himna ranns.

104. Hví mun maðurinn vilja' óvar
volsa og mikið láta,
er hann veit sig ekki par
orka í nokkurn máta
gæfu að gefa sjer;
þó oflátungar öðrum lýð
æðri þykist hjer,
eins jeg sje í armóðs tíð,
auðnan með þá fer.

105. Háðung það fyrir hygginn mann
jeg held í öllum greinum,
dreyssuglega ef drambar hann
af drottins gáfum hreinum;
því satan hóf þann sið
ótukt narra og apa vjes
enginn styggist við,
sagði hinn vísi Sókrates,
sem sjeð hefur mannfólkið.

## Tólfta grein um stjórnina.

106. Í tólftu grein nú talað er,
til þess máttu hlýða;
um stillilega stjórnan hjer,
sem stórhöfðinga prýða
fremur fanta sveit
mannkostunum mest af skal
og margskyns herlegheit;
Agesílas hóf það hjal,

hans jeg orðin veit.
107. Keisari eða kóngur einn
kostum þeim sje gæddur:
aldrei við sinn óvin neinn
óttasleginn nje hræddur,
en frómum fylgi lýð;
sparsamur má vera víst
og var í lukku tíð,
í fjórða máta forsmá sízt
fullgóð ráðin blíð.
108. Ísocratem, heldur hann,
frá hinum þekkjast mætti
fyrir þau manndóms verk sem vann
vanur sparsemdarhætti,
sem sjóli gæddur sje,
en kræsingum ekki í
eða sællífi,
stjórn má kalla þessa því
þrældóm skínandi.
109. Crysippus hinn spaki spakt
spjallar af vísdóm sínum:
jeg get ei stjórnar girnst, því makt
að guði misþóknast mínum
ef hún illa fer;
en gangi til sú valdsstjórn vel
vondir reiðast mjer,
vandaminst því víst jeg tel,
að vera sem aðrir hjer.
110. Undirsátar öfunda lán
yfirvaldsins stundum,
þykjast geta alls þess án
og ótal verzlað pundum
ef svoddan veittist sjer;

enginn betur kenna kann
hvar kreppir skórinn þver,
heldur en sjálfur þú sem þann
þrátt á fæti ber.

**Þrettánda grein um dómara.**

111. Í grein þrettándu gefst til sanns
glöggt þar um að skrafa,
hvað dómararnir lýðs og lands
lærðir eiga' að hafa
af fjórum dyggðum flest:
guðhræðslan er ágæt ein
og rjettvísi bezt,
frekt ágirndar forðist mein,
en fylgi sannleik mest.

112. Þeir þrír hlutir dimmast djarft
dómarans augu blinda,
vinskapur með elsku art
og óvild til mannkinda
sjálfs gagn þriðja þó;
því er lögum þings úr sal
þrálega fleygt á sjó;
meir enn hjer um mæla skal
margur að því bjó.

113. Jósafats var játning nett
Jórsala kóngsins forðum,
að dómurinn væri drottins rjett,
djörfum bauð með orðum
vel að vanda hann;
þeim sem yfir leiddu lög
landsins almúgann;
valdsmenn skyldu varir mjög
að vera eins og hann.

## Fjórtánda grein um lögin.

114. Í fjórtándu jeg fæ þó grein
fyrst af því að skýra,
hvað lýðir hafa lögin hrein
lagt í virðing rýra
ýmsum löndum á,
ekki síður um Ísafrón
en þeim grísku hjá,
meistarinn hefur sett fyrir sjón
samlíkingu þá.

115. Eins eru lög, jeg kalla kann,
og kóngulóar vefur,
smáfuglunum heldur hann,
en hinum stærri gefur
rúm að ráfa í gegn;
þau klippa opt með klemmum tveim
kotbóndann og þegn,
en stórhöfðingjar þrykkja þeim
þrálega yfir megn.

116. Aþenuborgar illir menn
Alexandrum spaka
sveltu í hel fyrir svoddan enn
hann sagðist yfir þeim vaka
lög með geysigóð;
en þau fyrir sín vondu verk
vanbrúkaði þjóð;
opt hafa þvílík orðin merk
aukið fleirum móð.

117. Plútarkus kvað mætara' mjög
mönnum vera frýjum
að efla gömul og iðka lög,
en auka mörgum nýjum.
Keisari Neró knár,

lögmál bezta lýðnum gaf,
sem letrin herma klár,
en lifði verst þó öllum af,
argur og lyndis þrár.
118. Langtum bezt þau lög jeg tel
lands í byggðum skarta,
innskrifuð sem eru vel
í yfirvaldsins hjarta
hollri hegðun í,
og útbreiðast fyrir utan kýf
aldurs daga, því
þeir eiga' að hafa auðkennt líf
sem öðrum stjórna frí.
119. Heiðarlega' að haga sjer víst
hver svo laganna njóti,
stöðugir, en setjast sízt
sannleikanum á móti,
sparsamt, þakklátt þel;
bakstytturnar forðist framt
fanta og narra vjel,
hvers manns smjaður hata samt
hagfelt þeim jeg tel.

### Fimtánda grein um ríkdóm.

120. Grein fimtándu gefa' á skil
gjarnan nú jeg skyldi,
um ríkdóm fellur ræðan til,
rjett því margur vildi,
sem eignast mikinn auð
hverjum manni heiðrast af
og hafa læzt enga nauð;
meistarinn fyrst þá minning gaf
að mold sje jarðar snauð.

121. Díógenes dikta vann
djarft með orðum snjöllum
um rjett vel búinn ríkismann
sem rýr er að menntum öllum,
en umvefst orma beð,
sem gerfisfalleg gemlings kind
gyltu reifi með,
því bæði' er vizkan búningsmynd
betri, en skraut og fjeð.

122. Þó purpura júnkur siti í sal
og svelti úti' hinn armi,
meiri' er sæmd að hyggnum hal
í hreinum vaðmálsgarmi,
en fanti' í flöjelskjól;
nóg má ríkur segast sá,
er svalt ei par nje kól
og ljet sjer nægja lukku þá
sem lánast undir sól.

123. Opt hefir drussa ósnotran
auðurinn þrýtt á veldi
fyrir alþýðu forgyltan,
en fátækt margan hreldi,
sem betri listir bar;
ríkdómur fyrir heimskan haus
helzt án skynsemdar,
er sem blakkur beizlislaus
bágur meðferðar.

124. Lifir þú, segir Seneká,
sem þín girnd að víkur,
að vísu máttu vita þá
þú verðir aldrei ríkur,
en alist æfin hjer
eptir náttúru þinni því

þörf sem rjett til er,
fátækt ef þú fellur í
fullvel trúðu mjer.

125. Guð hefur því svo hagað til
heims um víðar grundir
að þrennslags skyldi þjóð með skil
þrífast sólu undir,
reisugir ríkismenn
og fátækir aðrir þó
og þurfandi í senn,
meðal fjórðu mest í ró.
Mammon býður enn.

126. Auður heims er orðinn nú
afguð meir en fjandi,
hann svíkur opt frá sannri trú
sálir óteljandi;
mörg eru dæmin mest;
þessu veldur ágirnd örg
og athugaleysið vest,
fyrir stundlegri ber þó björg
búksorg öldin flest.

## Sextánda grein um ágirndina.

127. Í grein sextándu sest hjer inn
sýnt með fæstum orðum,
hvað ótjerleg sje ágirndin,
sem allir hyggnir forðum
löstuðu í heimi hjer.
Seneka hefur mælt um mann,
sem mjög gýrugur er,
að soltnum líktist hundi hann,
sem hrifsar alt að sjer.
Frekleg ágirnd fullvel kann

að fylgja hverjum eyrir;
þrátt hún eykst við ábatann,
þá auðinn saman keyrir
mammons vinurinn mest,
þess ríkari þjóðum hjá
því kargari ljezt
elztur þegar sannast sá
sinkur allra verst.

129. Snauðan vantar margt hvað mann,
málshátturinn spjallar,
en ágjarnan alt hvað hann
eiga þarf og kallar
fje gjörir frænda róg,
auðugur þykist opt af seim,
aldrei ríkur nóg,
þó klenódíum og kólgu eim
komi hann ekki í lóg.

130. Aristippus laus við last
líf sitt með því varði,
að gullsjóð sínum fleygði fast
flausturs út af barði
og orðum fjekk svo ýkt:
dælt er betra' jeg drekki þjer
djúpið ofan í ríkt,
heldur en brátt þú banir mjer,
þó brenni í mörgum slíkt.

131. Speking þessum vitra var
víst með orðum köldum
eitt sinn brígslað um það þar
af órækslunnar völdum,
að akur hans eyddist nær;
Aristippus svo með sann
samsint þessu fær,

í andsvarinu út gaf hann
athugaglósur tvær.
132. Fast er betra hann fordjarfist
fyrir mínar sakir,
heldur en að jeg óvirðist
yfir honum sem vaki
fyrir hans skuld svo fljótt;
öðruvísi held jeg hjer
hagi ágjarnri drótt,
sem fjenu safnar frekt að sjer
framm í banasótt.

## Seytjánda grein, um tímann.

133. Í seytjándu eg vil grein
athugaverðugt segja,
hvað oss ritning hermir hrein
hljótum vjer að deyja
allir eitt sinn víst;
nær dauðinn klappar dyrnar á
dvelja fær mannlíf sízt;
veraldar hyggja vond og flá
í vil fyrir mörgum snýst
134. Heiðnir hafa betur beint
búist við sínum dauða,
en kristnir nú, sem kjenna hreint
hvað kröftug lækning nauða
orðið drottins er;
falsi og löstum fyrri menn
forðuðu betur sjer,
náttúrunni ofbauð enn
hvað eptirkomandi sker.
135. Í Egyptalandi einn sá var
afbragðs sigur forðum

nær gestaboðin gjörðust þar
með gleðskaparins orðum,
þeir völdu víst til mann,
með dauðs manns mynd í hendi hljóp
hverjum sýna vann
innhýsingi í þeim hóp
og svo talaði hann:
136. Einn og sjerhvern, eg þess bið,
et og drekk þú maður,
skoðaðu til og skemt þjer við
sköpun þessa glaður,
því eptir dauðann eins
vita máttu' að verður þú;
vildu runnar fleins
með kappi slíku kefja nú
kvíðann banameins.
137. Um dauða jafnan þeinktu þinn
og þann uppmála skyldir
í hugskotinu hvert eitt sinn,
ef hraustur deyja vildir,
Seneca segir það.
Águstus nam óska sjer
opt skrifaði og bað,
að góðan mætti hljóta hjer
heimsins viðskilnað.
138. Xerres vildi' ei heyra hót
hjalað um dauða manna,
en Agag þóttist aptur á mót
öruggur helstund kanna
er Sanúel sundur sneið;
Aristóteles andláts tíð
einatt fyrir kveið,

segir dauðinn sje hjá lýð
sú grimmasta neyð.

139. Huggun vissu' ei heiðnir þó
hjartans kvíða' að stilla,
svo sem lýsti Ciceró
sjálfs hans efi og villa
um andar ódauðleik;
guði sje lof sem gaf oss skyn,
á grænni lífsins eik,
sem vínkvista sjer valdi kyn
með visin laufin bleik.

140. Það er ljóst, að vitum vjer
af vottan heilags anda,
enga dauðinn orku ber
útvöldum að granda
þó svipti fjöri um sinn;
til lífs eilífs þá langar þrátt
og leiðast svo þar inn,
sem heimsins vinir hirða um fátt
hjálpa oss drottinn minn!

141. Óguðræknir eiga sjer
engan verri en dauða
viðsjálsgrip í heimi hjer,
því hann er upphaf nauða
athugalausum eitt;
til satans alla sendir þá
sem hann getur veitt
og ekki í trúnni falla frá
er fyrr hafa illa breitt

142. Drottinn guð mig vara við
víst á hverjum degi,
að láta af illum synda sið
svo mjer dauðinn eigi

geti grandað par;
í andlátinu eru tvær
eptir brautirnar,
víst ójafnar virðast þær
og vara til eilífðar.

### Átjánda grein, um eilífðina.

143. Stef átjánda gjörir á grein
grunda ræðu mína:
Tímalaus mun eilífð ein
öllum mönnum sýna
hvað herrans makt er há;
blessuð lætur börn sín, hann
búa himnum á,
en vondum steypa í kvalir kann,
þeir komast þar ekki frá.
144. Þeinktu sál mín þar um nú
á þessum náðartíma;
hörmuglega hlýtur þú
hrökt frá drottni rýma
dóms á degi þeim;
aðskilin, sem Adams börn
eru' í flokkum tveim,
nema Jesús veiti vörn
þá vinir hans kallast heim.
145. Guðdóms þeirri grandar þjóð
grimdin ævarandi,
sem hrapar ofaní heljar glóð
þar hrekkvís plágast fjandi,
hörmung sú er hörð
hinir ljóma og leika sjer
á lifandi manna jörð

um eilífð þá, sem aldrei þver
með elsku og þakkargjörð.

146. Allskyns gæði endalaust
eiga þar að vara,
vjer upphefjum vora raust
með vitrum englaskara
svo klingi söngur klár;
hver er í drottins dýrðarsal
dagur sem þúsund ár
útvöldum til yndis skal
en engin fellir tár.

147. Lofstýr allir láta þar,
hjá lambsins stóli hljóma
syni guðs, er syndir bar
og síðan gjörði oss fróma
arf að eignast sinn,
trúar augum mínum með
mæni jeg þangað inn
svo hneigist til þín hugur og geð,
herra Jesús minn.

148. Jeg vil því hjartans fegin frá
frelsast heims ónæði.
Í þínu ríki þig að sjá
þau mjer veittu gæði
fyrir þitt blessað blóð;
útskúfaðu ekki mjer
ofaní heljar glóð,
þótt margt jeg bryti á móti þjer,
því miskun þín er góð.

149. Heilags anda hjástoð með
hjálpa sálu minni
til að rækja girndar geð
gæzku eptir þinni.

meðan jeg hjari hjer;
dáða góða dauðastund
drottinn gef þú mjer,
svo geti' eg komist guðs á fund,
þá glaður hjeðan fer.

150. Mjer þyki mál að þagna um sinn
á þessum átján greinum;
gef þeim öllum græðari minn
gleði í anda hreinum,
sem hjer hafa vel til hlýtt.
Fróða menn jeg forláts bið
þótt falli kvæðið lítt,
en ungir menn og einfalt lið
athugi málið nýtt.

151. Diktuð þessi dæma skrá
dregin af sagnar hjóli
heitir svo sem heyra má
heimspekingaskóli;
nafn mitt nærri stár,
er það kjent við engla gram
og upphæð meyjar fjár;
hafi sá þökk er hróðurinn nam
og hendir ekki að dár.

152. Himin, vindar, hafið, lönd,
hæðir, vötn og eldur,
tungl og sól með teiknin vönd,
tempran alt hvað veldur,
dýrki drottins nafn;
dropar grös, sem dægur tvenn
og dýrðlegt englasafn.
Amen, segi allir menn,
enginn er honum jafn.

---

## Fuglskvæði úr Annálum

orkt af sama.

---

1. Einsetumaður einu sinni
út gekk hann af skemmu sinni;
lund er sagt hann fyrir sjer finni
fjaðraveiðin sat þar á.
Fagurt galaði fuglinn sá;
hann söng þar upp á Sæborginni
sætt í þessum lundi;
listamaðurinn lengi þar við undi.
2. Ábótinn svo að því gáði
engra hluta gæta náði,
hann starði á þann, sem stóð á láði,
úr stað sjer hvergi þaðan brá,
Fagurt galaði fuglinn sá.
Historían honum tjáði,
að horfinn dagurinn mundi;
listamaðurinn lengi þar við undi.
3. Sæmdarmaðurinn svo rjeð inna:
senn er mál til húsa minna,
dagurinn mun því ljúfur linna,
lystir mig nú hjeðan að gá.
Fagurt galaði fuglinu sá.
Jeg hikaði vegna hljóða þinna
hjer í þessum lundi;
listamaðurinn lengi þar við undi.
4. Jeg held nú bezt mig hjeðan að vakka
heim til minna byggða flakka,
skemtunina þjer jeg þakka

þíðlega sem verða má.
Fagurt galaði fuglinn sá;
þótt beðið hafi jeg býsn að smakka
af burtförinni um stundir;
listamaðurinn lengi þar við undi.

5. Sofandi var hann samt þó vekti,
sá hann borg og staðarins slekti,
hvorki hús nje hölda þekkti
honum mjög í geðinu' brá.
Fagurt galaði fuglinn sá.
Honum fannst svo, sem hver sig hrekkti,
hann hrumur af elli stundi;
listamaðurinn lengi þar við undi.

6. Könnuðust ei við kappann hinir,
kólnaðir vóru hans allir vinir,
dauðir bæði dætur og synir,
dapur einn stóð eptir þá.
Fagurt galaði fuglinn sá.
Hans voru kraptar líkams linir,
sem líklegt þykja mundi;
listamaðurinn lengi þar við undi.

7. Af sínum ferðum fólki sagði
og fugli þeim, sem aldrei þagði.
Einn jeg þar við eyrun lagði
og unaðarsönginn heyrði á.
Fagurt galaði fuglinn sá.
Dapur niður datt að bragði
dauður trú jeg hann mundi
listamaðurinn lengi þar við undi.

8. Þeir fóru að skoða í fornar bækur,
fannst þá í þeim svoddan kækur,
að horfið hafði hamingjutækur,
fyrir hundrað árum þaðan í frá.

Fagurt galaði fuglinn sá.
Varla er von hann væri sprækur,
var honum þörf á blundi;
listamaðurinn lengi þar við undi.
9. Af honum sást svo ekki parið
utan smágjört moldarbarið;
efnið er þá yfir farið
útskýringin finst þar hjá.
Fagurt galaði fuglinn sá.
Sönglistinni svo er varið
samvist guðs og fundi.
listamaðurinn lengi þar við undi.
10. Þúsund ára þinna hagur
þar finnst ekki lengra en dagur;
englasöngurinn er svo fagur
öllum þeim sem heyrt hann fá.
Fagurt galaði fuglinn sá.
Upp í naust skal bágur bragur
borinn verða af sundi.
Listamaðurinn lengi þar við undi.

